# Ármanns saga.

Kostað hefur:

**Hallgrímur Þorsteinsson**

í

Saurbæ.



**Akureyri 1858.**

Í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,
hjá H. Helgasyni.

## 1. kapítuli.

Maðr hèt Dalmann; hann átti byggð þar, er heita Dalmannsdalir. Þeir liggja millum Gandvíkr ok Balagarðs-síðu. Dalmann var vinr ok fóstbróðir Dumbs konungs, er rèði fyrir Hafsbotnum, ok með hans fulltingi ok annara vina sinna friðaði Dumbr konungr ríki sitt, en áðr guldu feðr hans skatt til Geirrauðargarða. Dalmann fekk konu þeirrar, er Svafrlaug hèt, með tilstilli Dumbs konungs. Hún var dóttir Lunds úr Lundsey. Sú ey liggr í Hafsbotnum. Lundr var bróðir Dumbs at faðerni. Svafrlaug var fríð kona sýnum, ok skörungr mikill, ok unntust þau Dalmann vel. Dalmann var mikill maðr vexti ok rammr at afli, spakr ok friðsamr, ok myrkr í skapi. Þau Dalmann ok Svafrlaug áttu tvá sonu; hèt hinn eldri Grámann, en hinn yngri Ármann. Báðir váru þeir bræðr efniligir menn, ok vel at sèr um íþróttir ok atgjörvi. Þó var Grámann líkari í móðurætt; hann var ljós í andliti ok grájarpr á hár; hann var í grákufli, ok hött upp af, ok girtr svarðreipi. Ármann var rauðfreknóttr í andliti með rauðgult hár, er fór í lokkum allt at belti; hann var í blákufli ok höttinn af sama, spakr ok hóglyndr sem faðir hans. Þeir bræðr

skiptu með sèr starfa; var Grámann at veiðum ok reri til fiskjar, en Ármann gætti sauða ok uxa, því Dalmann var auðigr at gangandi fè; ok fór svá fram um hríð, þar til þeir bræðr eru fullvaxnir. Dumbr konungr átti mikit fè í uxum ok kjarnhöfrum, ok hèt sá Hrókr, er varðveitti; hann var sterkr ok illr viðreignar, en þó kær konungi. Þat var at einu hausti, at hann var vant hundrat kjarnhafra. Hrókr leitaði hafranna ok fann ekki. Dumbr sagði á reiði sína, ef hann fyndi ei. Hrókr leitar nú víða þar hánum líklegt þótti til vera. Hann kemr til Dalmanns ok lýsir höfrunum, en bóndi kvað þá þar ei komit hafa, ok man illa leitað í átthögum. Hrókr mælti: „Hitt segir mèr hugr um at hèr muni niðr komnir, ok eru þeir menn jafnan ei úlíkir til ráns ok þjófnaðar, er búa í afdölum". Dalmann segir hann annarstaðar mega at þýfi leita, ok biðr hann sem fljótast á brott fara. Hrókr sparar þá ei dylgjur ok íllyrði, ok fer af stað síðan. Skömmu síðar kemr Grámann heim, ok segir móðir hans hánum frá ummælum Hróks. Hann brást ei mjök við, en skipti þá mjök litum. Faðir hans bað hann láta kyrt vera, ok kvað lygar jafnan ganga til baka þá, er þat sannara upp kæmi. Grámann gegndi engu, ok skömmu síðar varð Dalmann var við, at Grámann var ei heima; þykist hann vita at hann muni hafa gjört

Hrók eptirför, býst hann þá sem fljótast af stað, ok vill ei fyrir hvern mun, sakir vináttu við Dumb konung, at fundum þeirra beri saman. Hann gengr um hríð, þar til er hann finnr Grámann; sat hann þá ok knýtti reimar sínar, en skammt þaðan liggr Hrókr, ok er dauðr; var hann brotinn á bak aptr. Dalmann kvað hánum illa tekizt hafa, at gjöra á móti boði sínu, ok man hèr illt af leiða. Grámann segist þat ekki sjá, at svá mani verða, ok var Hrókr betr af dögum ráðinn sakir úsæmda ok illyrða. Dalmann segir: „Ek mun nú fara ok hitta konung ok lýsa víginu, mun hann gjöra fyrir mín orð ok taka bætr fyrir mann sinn, en þú skalt heim fara“. Grámann segir, hann ráða skyldu. Dalmann fer nú á fund Dumbs konungs, ok segir hánum, hvat í hafi orðit í viðskiptum þeirra Hróks ok Grámanns, ok býðr konungi bætr. Dumbr segir: „Jafnan auglýsir þú fóstbróðir góðvilja þinn til vár, ok skal ei sá munr okkar vera, at ek gjöri fègjöld af þèr ok sonum þínum fyrir eins manns víg, ok munum vit sáttir“. Dalmann þakkaði konungi umtal sitt, ok skildu þeir síðan með kærleikum.

## 2. kapituli.

Svá hefr frá sagt verit, at Dumbr konungr væri stjórnsamr ok harðr í refsingum, ok þoldu jötnar illa ríki hans, en treystust þó ei til atgjörða

eðr atfara við konung sakir Dalmanns ok sona hans, ok leið svá fram um hríð, at allt var í kyrrðum. Nú tekur Dalmann sótt mikla þá er hann leiðir til bana, ok skömmu þar eptir andaðist Svafrlaug, ok bjuggu þeir bræðr um lík þeirra ok drukku erfi. Var konungr at þeirri veizlu, ok leystu þeir bræðr hann út með vingjöfum. Þótti nú jötnum steini úr götu hrundit, er Dalmann er andaðr, ok tala nú fyrir konungi, þat mikla úsæmd vera, at menn hans sèu rèttlausir fyrir Dalmanns sonum, hvárt heldr sèu barðir eðr drepnir, þar et hann refsi sumum mjök fyrir smásakir svá varla sè þolandi, ok megi hann eigi konungdóm hafa, ef hann láti slíku fram fara; muni skammt þar til, at þeir komist at konungdóminum. Dumbr gaf sig fátt um tal þetta, en leizt þó sem hefðu þeir satt at mæla, ok varð nú færra með hánum ok Dalmanns sonum. Þat var einn tíma, at Dumbr fer í Dalmannsdali ok hittir þá bræðr, ok biðr þá bæta fyrir víg Hróks, kvaðst hann ei vegna virðinga sinna slíkar sakir úbættar mega líða. Þeir bræðr kváðust þess ófúsir, ok sögðu Hrók úhelgan sökum ályga ok illyrða. Konungr bað þá þá brott fara úr Dalmannsdölum; „Veit ek at menn mínir láta skjótt af umræðum við mik um slíka luti, ef þit erut fjær, en ek þoli lítt sökum skaplyndis míns frýunarorð jötna. Þeir tóku þessu lítt, ok kváðu hann sjálfráða at orðum ok gjörð-

um, ok fór hann heim við svá búit. Þat var eitt sinn, at þeir bræðr töluðust við, at Ármann segist vilja vægja fyrir konungi sökum vináttu, ok fara úr Dalmannsdölum ok leita annara byggða. Grámann segist ei látast vilja hrekja sik af föðrstöðvum sínum með vafinleysum. Ármann segir: „Annathvárt munum við báðir fara eða hvárigr ella“. Grámann kvað hann ráð mundu. Fóru þeir þá úr Dalmannsdölum til Finnlands, ok dvöldust þar um hríð. En eptir brottferð þeirra bræðra gjörðu jötnar sik augljósa í fjandskap við Dumb konung, ok sá hann þá enn gjör tilgang þeirra; þóttist konungr vina misst hafa ok hitt líkara at tilburðum mundi sæta. Kom hann þá syni sínum, er Bárðr hèt, til fóstrs vestr í Noregi; en sjálfr hann fèll fyrir jötnum með miklum atburðum. Nú þykir þeim bræðrum illt til sauðhaga ok jarðskemt á Finnlandi; skiptu þeir þá auði, ok fór Grámann austr til köldu Svíþjóðar, en Ármann vestr til Noregs ok skildu þeir með kærleikum.

## 3. kapituli.

Í þann tíma, er Ármann kom til Noregs, var Haraldr húfa konungr yfir Noregi, ok hafði skipt ríki með sonum sínum; var Eiríkr Blóðöx fyrikonungr þeirra. Hann hafði fengit konu þeirrar, er Gunnhildr hèt; hún var vitr kona ok fríð sýnum; hafði hún veizlur norðr um land. Ár-

mann hafðist við á Hálogalandi, ok var stundum í kaupferðum. Konungr ok Gunnhildr spurðu til Ármanns, ok þat hann væri afbragð annara manna sakir vits ok atgjörvis. Gjörðu þau hánum orðsending at koma á sinn fund. Ármann tók því lítt, en er hánum komu þau boð opt, vildi hann ei þá ferð undir höfut leggja. Þau tóku vel við hánum, ok var hann með Eiríki konungi í hinum mestu kærleikum um hríð. Þat fann Gunnhildr drottning, at Ármann var margvitr, ok fróðr um alla luti, ok heimti hún hann opt á tal við sik; nam hún ok af hánum marga vizku ok hyggindi, ok virti hann fram yfir hvern mann í konungs hirðinni. Gjörðust þá nokkrir menn til at úfrægja þau fyrir konungi, ok kváðu slíkar samræður mundu nokkru sæta. Konungr varð fár við þetta. Þat fann drottning, ok leitaðist eptir af konungi hverju gegndi. Hann duldi hana þess, en kvað hana þó miklu valda mega. Gunnhildr segir: „Er sem mik grunar, herra, at samtal Ármanns ok mín standi yðr fyrir gleði; má þat ei svá vera, en satt vil ek segja yðr þat, at slíkt hefir ei með lýtum verit, Nú mun hann ei una hjer við álygi yðar, en hitt væntir mik ek geti rètt til, at sú tíð beri okkr at höndum, at vit vildum hann kyrran, því hans jafningjar eru ekki margir hèr í Noregi“. Konungr svaraði engu, en drottning gekk í brott, ok var dreyrrauð

at yfirliti. Hittir hún nú Ármann, ok segir hánum frá viðrtali konungs ok sín. Ármann kvaðst at því gjöra skyldu, ok býr hann sik í brott. Hún bað hann ei svá fljótt fara skyldu. Hann segist nógu lengi þar verit hafa henni til ámælis at saklausu. Hún bað hann kveðja konung áðr hann færi; „mætti til bera, at konungr hefði tekit sinna skipti". Ármann kvað nei við. Drottning tók þá guðvefjar skikkju, motr gullofinn ok hálsmen, ok mælti: „þessa gripi gef ek þjer Ármann en þat er með skilorði því, ef þjer verðr auðit at unna konu, at hún njóti þá gripanna, ok vil ek jafnan hafa vináttu þína". Ármann kvaðst ei fèþurfi, tók þó við gripunum ok þakkaði drottningu; skildu þau með kærleikum.

## 4. kapituli.

Ármann vill nú ei lengr dvelja í Noregi; ok þat hefir hann spurt, at á Íslandi sèu landkostir góðir ok sauðfè gott; var land þá víða numit, ok margt manna úr Noregi þangat komit; fýstist hann því Íslandsferðar. Þann vetr var í Noregi Þorkell, íslenzkr maðr. Hann átti bú at Arnarbæli fyrir sunnan heiði, ok hafði sóttan húsavið til Noregs. Með hánum tók Ármann sèr fari, ok gaf þeim vel byri, sva þeir á 7 dögum tóku höfn í Selvági. Ármann gekk frá skipi, er þeir höfðu land tekit. Hann lypti húðfati á herðar

sèr: þat var svá mikit, at menn héldu. at tíu menn mundu ei meira lypta, kistla tvá hafði hann í fangi. ok stefndi til fjalla, Maðr bjó at Reykjum í Ölfusi, er Ingólfr hèt, ok var Arnarson; setti hann fyrstr manna byggð á Íslandi: þá var hann á gamals aldri ok sjónlaus. þar beiddist Ármann gistingar. þar var hann um nátt ok veittr beini. Hann hitti Ingólf áðr hann færi af stað, ok bað hann vísa sèr bólstað. Ingólfr kvaðst ei þat kunna, því lönd eru víðast numin, þar er byggvænligast þykir, en mèr virðist svá um hag þinn, þú munir ei byggðarþröng þola; en upp frá Hrafnabjörgum fyrir ofan skóga eru sagðir landkostir, ok eru menn nýfarnir at byggja þar. Ármann þakkar Ingólfi liðsemi ok húsavist, ok stefnir þaðan norðr um heiði ok upp til Hrafnabjarga. Hallketill hèt maðr; hann var leysingi Ketilbjarnar at Mosfelli. Hann bjó efri hlut æfi sinnar at Hólum í Laugardal. Hánum græddist mjök fè, ok er Laugardalr varð fjölbyggðari, þótti Hallkatli sèr þrönglent; seldi því landit at Hólum ok flutti byggð sína. ok bjó undir Hrafnabjörgum vestr fra Skjaldbreið. Hann var góðr bóndi ok hníginn á efra aldr. Ármann kemr þar síð dags ok beiðist gistingar. Bóndi veitti slíkt er hann beiddist. At morgni skeraði Ármann á bónda um vist ok viðtöku. Bóndi lèt þat til reiðu ef hann vildi starfa. Ármann kvaðst engi starfa-

maðr vera: en gætti ek fjár í góðu veðri, þá ek var ungr. Bóndi kvað sèr þann starfa hentan: er hèr margt sauða, en víðlendur miklar, ok sækir fèt norðr til jöklanna. þætti mèr gott þú litir til með smalamanni. Ármann kvað svá mætti vera, ok var þar þau missiri.

## 5. kapituli.

þá er kom fram á vetr ok lengdi daga, gekk Ármann norðr ok austr um fjöll ok gjörði sèr leiðir kunnar ok landslag. þat var einn dag at Ármann gekk um kletta nokkra, er liggja norðr frá Hrafnabjörgum, hann sá at maðr gekk fyrir hánum. Maðurinn var lágr vexti, ok hafði fuglakippu á herðum. Ármann nálgast hann skjótt, ok spyr hann að nafni. Hann kvaðst Heiðúlfr heita, ok á ek hèr byggð, eða erta Ármann, ok veit ek víst þú stýrir heillum. Ármann bað hann vísa sèr til bólstaðar þar, er landkostir sèu. Heiðúlfr segist þat mega gjöra. Fell stendr hèr gagnvart ok eru skógar miklir ok grasgæði, at trautt munu betri finnast, ok vísa ek þèr því hèr til, at ek vil þik sem næst byggð minni, því mèr mun opt gagn af þèr standa, ok fleirum er þín við þurfa. Ármann brosti, ok kvað hánum vel mælast, ok mantu góðr karl; gaf hann þá Heiðúlfi knif ok belti. Hann tók við, ok þakkaði gjöfina, ok kvaðst launa skyldu. Ármann segist ei til launa geta, en góð

þykir mèr vinátta þín. Skildu þeir síðan, ok fer Ármann heim um várit at tvímánuði. Taldi bóndi fè sitt, ok var einskis vant. Gaf hann Ármann 12 ær með lömbum ok 12 geldinga. Reisti hann byggð sunnan undir fellinu, ok felldi skóg til rjóðrs. Ei er getið, at hann rèði hjú til búss síns, ok græddist hánum fljótt fè, þat fann Ármann at fèt sótti meira norðr um fellit, þótti hánum ágangr meiri hit neðra. Flutti hann þá byggð sína norðr í fellit. þar hafði hann helli mikinn ok annan handa fènu. Vandi hann svá fèt, at þat rann sjálft til hellisins hvert kvöld er viðraði.

þat fundu byggðarmenn skjótt, at eptir þat Ármann kom í fellit urðu fjárhöld ok heimtur betri, ok töldu bændr fè sitt úr afrjettum, en þess er vant var kom sjálfkrafa, ok þótti þeim sem Ármann ræki þat til byggða; tóku því margir þat ráð, er þeim var nokkurs vant, at heita á hann til fulltingis, ok sumir leituðu styrks ok hjálpar hjá hánum, ok þat gafst þeim öllum vel; gjörðist hann því vinsæll víða um landit. Á sumrum hèlt hann fè sínu norðr um Bláskóga ok í felli því, er hann kallaði Kvikfèindisfell, ok þótti hánum þat þá feitara at mörvum. þá er Ármann hafði verit nokkra vetr á Íslandi, kom utan úr Noregi Bárðr Dumbsson frændi hans, ok setti bú at Snæfells nesi; fundust þeir brátt ok bundu með sèr hinn forna vinskap, er verit hafði með

feðrum þeirra, ok svá hefr frá sagt verit, þeir hafi þegit veizlur hvár af öðrum at miðjum vetri ok hèldu því jafnan.

## 6. kapítuli.

Með Núpa Bárði fóstbróður Bárðar Dumbssonar kom út sá maðr er Þórálfr hèt; hann var háleyskr at kyni, mikill ok sterkari en aðrir menn, illr ok úeyrinn; hann var sekr gjör of allt Hálogaland um vígaferli ok kallaðr vargr. Hann dvaldist um hríð með Bárði bónda at Núpum. En er Bárðr vildi ei halda hann lengr sökum skapsmuna ok úeyrðar, fór Þórálfur á brott ok falaði vist, en enginn vildi taka við hánum. Litlu síðar var hann sekr gjör af rossareið; lagðist hann þá á fjöll, ok stal fè manna. Ill þótti Þórálfi æfi sín; tekr hann þat ráð, at hann hittir Ármann ok biðr hann ásjár ok viðtöku. Ármann kvað sjer ei um óeyðarmenn, ok gefst ofsi þeirra jafnan illa, ok máttu leita þèr annara úrræða. Þórálfr skorar fastlega þetta mál ok biðr hann þat nokkut tilleggja með hánum, er at hjálp megi verða. Ármann segir: „Fell eitt stendr suðr af Skjaldbreið. Upp í fellinu er hellir mikill; þar er þat bezta vígi, sva trautt eðr ei má í hellinn komast, ef einn maðr ver. Þar allskammt frá er fiskivatn þat, er Hvítá fellr úr, ok er þar veiði nóglig, svá þèr mætti þetta at liði verða.

en legg niðr rán ok þjófnat, ella man þèr ei at duga". Þórálfr fer eptir tilvísan í hellinn, býst, þar um, ok veiðir úr vatninu. En mjök tryllist hann nú til skapsmuna, ok löng þykir hánum æfi sín í hellinum, ok at ári liðnu finnr hann Ármann, ok segir hánum sik ei sökum langsemi geta lengr þar verit. Ármann segir „hann vandræðamann vera, ok finn mik at vetrnáttum, man ek þá nokkut til leggja, því ek þykist vita, hvat hugr þinn horfir um þetta mál". Ok fer Þórálfr brott. Ármann hafði lært íþrótt þá í æsku, er tíðkuð var á þeim tímum norðr um Gandvík ok Hafsbotna, at hann fór gandreið í lopti, hvert er hann vildi. Hann sótti þá austr til Finnlands Hlaðgerði dóttur Innsteins jarls með hennar vilja: hún var hit mesta tröll at vexti ok afli, en ljúf ok þæg í skapi, ok vel viti borin, ok hafði hana með sèr í fellit. En at vetrnáttum kom Þórálfr, ok gipti Ármann hánum þá Hlaðgerði; fór hann með hana í helli sinn ok undi sèr nú betr. Ok svá bætti Hlaðgerðr skap hans, at hann var spakr ok eyrinn. Þau áttu þrjú börn; Þórir hèt son þeirra, en Hallgerðr hin eldri dóttir, ok Þorgerðr hin yngri; hennar fékk Brandr hinn sterki undir Hlíð. Þeirra son var Hallmundr í Balljökli: en Hallgerði átti Geir í Keldudal. Þeirra synir váru þeir Bergþór í Bláfelli, ok Jónsteinn á Reykjanesi. Þórir son Þórálfs var opt at fóstri með

Ármann, og kenndi hann hánum margt í fornum vísdómi.

## 7. kapituli.

Maðr hét Oddr ok var Sæmundarson, Úlfarssonar, Þórissonar, Hallmundarsonar af Fitjum mikill maðr ok vel búinn at íþróttum. Hann bjó í Tungu í Efra Reykjadal. Hann hafði tekit við goðorði hit nyrðra um Reykjadal, ok fengit Þórdísar dóttur Bárðar Dumbssonar. Smalamaðr Odds ok þeirra Kroppverja deildu um beit, ok rak smalamaðr Odds fénað þeirra yfir ána; en smalamaðr frá Kroppi skaut spjóti yfir ána ok í gegnum hann, ok fannst hann þar dauðr. Ei lýstu Kroppsmenn víginu, ok var þat launvíg eðr morð. Þat mál sótti Oddr á hendr Kroppsmönnum til fullra sekta, en þeir vörðu, ok fekk Oddr ei framkomit málinu. Stefndi Oddr því máli til þings; Fjölmenntu hvárirtveggja, ok höfðu Kroppsmenn fleiri, ok vörðu Oddi þingreið, ok ei náði hann at tjalda búð sína. En áðr Oddr reið til þings, mælti Þórdís til Odds: „Ef þér verðr torveld sóknin, sem mik varir, þá finn þú Ármann í Ármannsfelli, ok ber hánum kveðju mína, ok seg hánum, mér ok Bárði föðr mínum þyki mikit undir því komit at þú haldir virðingu þinni fyrir Kroppsmönnum". Líðr nú fram um þing at Oddr kemr ei fram málinu, ok ei nær hann þingreið. Þat

var eitt kveld, at Oddr söðlar hest sinn, ok ríðr upp með Ármannsfelli ok norðr fyrir fellit. Hann heitir þá á Ármann til viðrmælis. Skömmu síðar sèr hann mann í fellinu, sá var í blákufli. Oddr þykist vita, hver maðrinn sè, ok stígr af hestinum, ok gengr upp í fellit, ok heilsast þeir. Ármann spyr hver hann sè, ok at erindum. Oddr segir hit sanna, ok skilar orðsendingu þórdísar. Ármann segir: „Ei er ek lutsamur um mál manna ok ei kemr mèr þetta við. En lítt eru þeir menn annars sparandi, er verja öðrum rjettra laga, ok þat mun þórdís frændkona vilja, ek lutist at". Nú skaltu með fara sem ek segi fyrir: „Á morgun, er sól skín á þingvöll, þá vertu kominn at lögbergi við 7. mann, manu öngvir þá varna þèr þingreiðar. þú skalt nefna þèr vatta við þá vatta, ok bjóða setu, og nefna á nafn dómendr alla, er í þeim dómi sitja, er dómr skal framfara; ber síðan sökina í dóm, ok nefn vátta til, við þá vatta at sök er í dóm borin; lýs svá sektum ok söknum til reifingar ok nefn vátta til við þá vátta. ok þat at sök er í dóm borin at lögum rèttum, ok eigu dómendr, er í þeim dómi eru at sök, þá at dæma, er þeir koma til dóma, þó ei sèu áðr við". „Far nú með sem ek segi", segir Ármann, „ok finn mik þá er þú ríðr af þingi". Ríðr Oddr aptr til manna sinna; ok um morgininn ríðr Oddr á þing, ok fer með allt eptir því er Ármann taldi fyrir.

Varnaði engi Oddi þá þingreiðar, ok engi varð var við för hans, En er dómsmenn koma til dóma, stendur Oddr þar upp ok menn hans, ok nefnir vátta at, at sök er í dóm borin, ok boðin vörn. Var þá Kroppsmönnum til sagt, at Oddr er at lögbergi ok sakir fram bornar ok geta þeir ei at gjört, en tala þat at dómi, at sök sè ei rétt sótt, þar dómendr váru ei at dómum, er sök var í dóm borin. þótti sumum sem Oddr færi með lögleysu, ok var lögmaðr at spurðr um þetta. Hann spyr ef váttar eru nefndir til, at dómendr voru allir nefndir, er í þeim dómi váru. þeir kváðu svá vera. Lögmaðr kvað: „Margir gjörast nú lagamenn, ok eru þetta rètt lög í Noregi, þó forn sèu", Ok fór málit út, ok urðu Kroppsmenn sekir at lögum, ok þótti öllum Oddr draga bust úr nefi þeim. Undu þeir illa við, ok riðu af þingi; en Oddr hafði virðingu ok almannaróm, at hann hefði máli sínu hagat at hyggendum; ok at þinglokum reið Oddr heim af þingi ok hitti Ármann, er hann reið frá flokk sínum. Ármann spyr hann at málalokum. Oddr segir af hit sanna, ok þakkar liðveizluna, ok gefr Ármann gullhring, þríeyring. Ármann kvaðst ei fèþurfi, en sökum vináttu man ek þiggja, ok man ek þat tilleggja enn með þèr, at vegr þinn vaxi. Nú vilda ek, at þú heimtir eigi sektir af Kroppsmönnum, ok gefir þeim upp sakir allar, en veganda frjálst leyfi

af landi brott til flutnings ok utanferðar, ok seg upp at leiðmóti. Oddr segir: „þat mun þórdís, kona mín, til leggja, ek hafi ráð þín“. „Ei man virðing þín at minni“, segir Ármann; ok skyldu þeir með kærleikum. En er Oddr kom af þingi, stefnir hann leiðmót, ok boðar Kroppsverja til móts. Þá stóð Oddr upp ok mælti: „þat er öllum kunnugt, hvern veg málalok yðar Kroppsmanna ok vár hafa til gengit. Fór þat eptir líkindum, þar þèr með ofsa ok kappi vörnuðut oss rèttra laga. En fyri þá sök, vèr fórum með sök rètta, hefr ek hærra lut af borit, ok at vitni þeirra, er hèr eru at leiðmóti, þar ek er aðili sakar, ok má mestu um ráða, gef ek yðr sakir allar ok sektir kvittar, þær er dómendr dæmdu at lögbergi í sumar, en veganda flutnings ok fararleyfi frjálst til Noregs eða annara landa, ok eigi ei útkvámu ván innan 16. árs. Skal ek at sumri sjálfr standa fyrir dómrofi ok gjörðarlýsingum at lögbergi“. Allir þökkuðu Oddi gjörðina, ok kváðu hánum vel fara. Kroppsverjar handsöluðu Oddi goðorð hit syðra um dalinn, þat er þeir fóru með, ok tókst upp með þeim vináttu, en virðing Odds vóx af þessu svá mjök, at hann heir þótt verit hafa einhver mestr höfðingi suðr of land.

## 8. kapítuli.

Þat bar til at einu sumri, at Ármann fór at skreiðar ok mjölkaupum til Suðrnesja. Þá er hann

fór sunnan, fór hann hit efra eptir heiði, ok áði undir Hellisskarði í rauninu; lagðist til svefns, en sleppti rossunum á beit. Maðr hèt Þorbjörn ok var Þormóðsson. Hann bjó í Þormóðsdal at Helgafelli. Hann var kvángaðr, ok átti dóttur er Helga hèt. Hún var á unga aldri, fríð kona ok efnilig, svá þar fannst engi vanni. Hún var at seljum fram í dalnum, en smalamaðr rak búsmala um morgininn til sels. Hann sá rossin ok þekkti ei; en ekki sá hann manninn nè flutning. Hann hyggr at byggðarross sèu, ok rekr til sels, ok biðr Helgu til segja, ef nokkur lýsi eptir. Fer hann síðan til bæjar ok annat fólk, er gætti starfa, en bónda dóttir ein gætti sels. Ármann vaknar nú, ok saknar rossanna; leitar hann ofan eptir dalnum, ok sèr ross skammt frá selhúsunum; hann gengr til húsa ok sèr engan úti; hann gengr þá inn í selit. Bóndadóttur verðr bylt við, er hún sèr manninn, en spyr hann síðan at nafni. Ármann segir: „Ek heiti nú biðill þinn", ok setti hana í knè sèr". Hún æpti, ok bað hann ei svá gjöra Hann kvaðst mundi ráða viðskiptum þeirra; hlaut nú at vera sem Ármann vildi, ok rèð hann fyrir þau bæði. Eptir þat rekr hann hestana, ok fer leiðar sinnar. Helga horfir eptir manninum, er hann gengr frá selinu, ok sýnist henni maðrinn mikill ok drengiligr, Hafði höttrinn rekizt ofan, ok var

rauð silkihúfa undir, en hárflèttur slóust um herðar at mitti. Eptir samfund þeirra varð hún þunguð, ok at áliðnum vetri fæðir hún svein einn; hann var fríðr ok stór. Þorbjörn bóndi brást reiðr við; huggði hann smalamaðr ætti barnit. því Helga vildi ekki segja til faðernis; skipaði hann at bera út barnit, ok kvað þat þrælborit. Helga bað sveininum griða, ok segir, hann mega viðbúast þann einn vera föðr at, er sár muni í sonarhefndinni. Bóndi lèt hana þá ráða, ok jós hún sveininn vatni ok kallaði hann Úlmann (Úrmann). Ólst hann þar hjá móður sinni upp um hríð ok var efniligr. Aldrei lèt bóndi sem hann sæi sveininn, ok bjó illa at hánum, en móðir hans veitti hánum slíkt er hún kunni. En er Úlmann var 9 vetra; var hann meiri ok sterkari en aðrir sveinar, en lítt vandaðr var hann til klæða, ok skipaði bóndi hánum at gæta rossa. Þat var einn dag of vetr at sveinninn rak rossin til fjalls; var veðr kalt ok drífandi Hann sèr at maðr gengr móti hánum. Sá var mikill vexti ok í blákufli. Hann gengr at sveininum ok mælti: „Illa gjörir fóstri þinn, at hann lætr þik vesalmenni hrekjast út í kuldaveðri, ok kom með mèr til byggða minna“. Úlmann spyr hann at nafni. „Hann kvað hann engu þat varða. En þat mundi móðir þín tala, væri hún hèr, at ek væri faðir þinn“. „Sveinninn segist vilja móðr sína vita láta af

brottferð sinni". „Ármann segir þat engu varða". Tekr hann nú sveininn, ok hefr heim til byggða sinna; ok er Úlmann þar of hríð. Tekr hann nú þroska ok atgjörvi, svá færri sýndust hans jafningjar. En er hann hafði 3 vetr verit at föður sínum, mælti Ármann, „hvat hann vildi afráða, því þèr man þykja hèr dauf æfi þín í fjallinu hjá mèr". Úlmann kvað „hug sinn lítt þaðan hvarfla, ok gott þykir mèr hjá þèr at vera". „Ei má lengr svá vera", segir Ármann. „Þá vilda ek þú rèðir mèr fari, ok færi ek utan at sumri". „Hèr á landi man gæfa þín mest", segir Ármann, „ok skaltu fara heim til móður þinnar. Þú skalt beiðast af fóstra þínum sellands þess, er hann hefr upp undir heiði; þar skaltu bú setja; því þat eru forn mæli, þar sè gæfa hvers mest, sem getinn er. Ok nú skaltu færa móður þinni gripi þessa: skikkju, motr ok men; skal hún eiga þá ok eigi lóga, man hún þá heldr til við hvern hún hefr fengizt, en síðan man ek sjá fyrir ráði hennar". Fer Úlmann heim í Þormóðsdal. Verðr móðir hans hánum fegin, því hún huggði hann fyrir löngu dauðan. Hafði Úlmann tekit þann þroska síðan hann fór á brott, at hann samþauð þeim röskustu karlmönnum, er til aldurs váru komnir. Eitt sinn mælir Úlmann til Þorbjarnar fóstra síns: „þess vil ek biðja þik, þú gefir mèr selland þitt; vil ek þar reisa mèr ból-

stað". Þorbjörn brást reiðr við: „Djarfr ertu þrælborinn, at æskja þjer bólstaðar, ok skaltu vinna hèr í sektum ok fyrir fóstri þínu; hefr þú leynzt úr vist þinni ok laupit um land, ok ertu illr maðr, ok illr man faðir þinn, hvárt hann er tröll eðr maðr". Úlmann varð fár við ok gekk á brott. Hit sama kvöld varð Þorbjörn bráðdauðr at snæðingi, ok mundu menn til geta, at Ármann hefði ei viljat líða hánum lastyrði. Tók Helga þar við búi, því hán var einbirni, en Úlmann gjörðist forstöðumaðr hennar, ok verða þá margir menn til at biðja hennar, en hún neitar þeim öllum; ok er nú vegr hennar með virðingu. Er Úlmann son hennar kallaðr þar mestr manna í sveitum ok líða þau missiri.

## 9. kapítuli.

Maðr hèt Arnljótr ok var Gautason, kallaðr hinn auðgi; hann bjó at Miðfelli við Þingvatn. Þórarinn hèt son hans, fríðr maðr sýnum, sterkr ok vel íþróttum búinn, ok vænstr manna þar í byggðum. Arnljóti var vant sauða at sumarmálum, þá er rýja skyldi, ok biðr Þórarinn leita eptir, ok segir sauðina runna á sumarstöðvar hinar fyrri. Þórarinn býst af stað ok leitar um heiði ok upp til Hrafnabjarga. Hann lýsir sauðunum fyrir smalamanni at Reiðartúni, en hann segir þá fyrir nokkrum dögum runna

austr í raunit. Þórarinn heldr áfram leitinni, ok gengr norðr of raunit; þá kemr yfir hann þoka mikil, svá hann veit ei stefnu ok villist hann brátt, ok veit ei hvert hann heldr; gengr svá lengi dags. Hánum þykir nú illa áhorfast um sauðafundinn, ok heitir á Ármann til fulltingis. Litlu síðar heyrir hann hóað í þokunni. Hann gengr eptir hljóðinu, ok þykir hánum hljóðit því fjær er hann gengr lengr. Fer svá á kveld fram, ok er hann þá kominn í fell eitt. Því næst sèr hann mann í blákufli; sá gengr móti hánum ok kveðr hann blíðlega. Þórarinn tók kveðju hans, ok þykist vita þetta er Ármann. Spyr hann ef hann vissi til sauðanna. Ármann segir þá ei langt þaðan, ok býðr hánum til hýbýla sinna ok taka hvíld. Þórarinn segist vilja heim, ef hann vísaði hánum sauðina. Ármann segir illa skygnt til leiðar meðan ei lètti af dimmunni, ok munum vit sitja ok kasta mæði. Settust þeir niðr, ok töluðu um hríð. Spyr Ármann hann margra luta úr byggðarlagi, ok af háttum manna. Þórarinn leysir slíkt er hann spyr. Ármann spyr hann um unga menn ok konur, ok ef hann er ókvæntr. Þórarinn segir svá vera. Ármann spyr ef hann vill kvángast, ok er þat ungra manna at staðfesta ráð sitt ok setjast í búnat. Þórarinn kvaðst ei hafa þat hugfest at svá búnu. Ármann segir: „Vita þykjumst ek

þèr muni ei allar þykja þèr jafnboðnar, því þú, ert maðr gjörviligr, eru þó margar vel at sèr ok mantu þó þetta sem aðrir upp taka". Þórarinn sèr at Ármann flytr þetta með áhyggju, ok spyr, ef hann vissi sèr konu við sitt hæfi. „Veit ek víst segir Ármann". „Helga í Þormóðsdal er sú kona, er nú er ágætt, ok er vegr hennar með sóma". Þætti mèr ráð þitt virðuligt ef þú fengir þeirrar". „Þat mæla sumir menn", segir Þórarinn, „þèr komi nokkut við ráð hennar, eðr muntu vilja til leggja með henni„. Ármann segir: „Ei ber ek þat af mèr, at ek eigi at hlutast til um ráð hennar". Þá máttu miklu um ráða", segir Þórarinn, ok er ek fús at biðja hennar, ef hún vill því taka". Ármann segir: „Þá legg ek til með henni 20 hundraða þeirra aura, er 16 aurar fylli hvert hundrað, ok skal ek greiða í gulli, silfri ok gripum". „Vel er þat til lagt". segir Þórarinn, ok man ek leita ráðsins með þinni forsjá„. „Til man ek hlutast". segir Ármann, ok skyldu þeir talit; vísaði Ármann hánum sauðina, lètti þá upp dimmunni, ok fer Þórarinn heim. Skömmu síðar kemr Þórarinn at máli við föður sinn, ok segir: „Þat vilda ek, faðir, þú leitaðir mèr kvánfangs". Arnljótr spyr, hvar hann horfi á um þat mál. „Þat þætti mèr líkligast þú biðir mèr Helgu í Þormóðsdal". Arnljótr segir: „Þat hefr ek spurt, hún sè mann-

vönd, ok ei veit gjörla ráð hennar, ok ei skil ek hvernig hún tekr þessu, en væn er konan, ok mann vit freista“. Ríða þeir þá í þormóðsdal, ok tekr Helga vel við þeim, ok ber Arnljótr upp bónorðit. Tók hún því máli seinliga. þórarinn kvað Ármann sèr þagat vísa, ok telr fram tillögur hans. Játaði hún þá gjaforðinu, ok fastnaði Úlmann þórarni móður sína, ok skal brúðkaup um hautit at þormóðsdal. þat sama sumar beiddi Úlmann dóttur bónda at Úlfsvatni; var hún hánum heitin, ok beið hófit hausts, ok skyldi þat haldast undir eins í þormóðsdal. Nú líðr sumarit fram til hausts, ok búast þau Úlmann ok Helga við boðinu, ok draga föng til sem mest máttu. Var nú ásettr dagr, ok boðit mönnum. Úlmann ferðast þá, ok hittir föður sinn, ok bað hann þiggja boðit. Ármann tók því lítt, ok kvaðst ei hirða at troðast undir manna fótum, eðr í þröng vera. Fór Úlmann heim. Skömmu síðar kom þórarinn, ok bað hann sitja at brúðkaupi sína í þormóðsdal. Ármann hèt ferðinni, ok kvað Úlmann fyr boðit hafa. Kemr þá boðsfólk í settan tíma. Var öllum vel fagnat, ok veitt virðugliga, ok líðr fyrsti dagr svá at Ármann kemr eigi, ok þykir Úlmann ok þórarinn þat mikit mein. Annan dag settust menn undir borð, ok er meiri veizla en fyr, ok líðr dagr at kveldi. því næst gekk maðr í drykkjustofuna. Hann var svá bú-

inn, at hann var í rauðum skarlatskyrtli, girtur sverði, en utan yfir í blárri guðvefjarskikkju, ok knýtt gullreim at utan. Hjálm gulli roðinn hafði hann á höfði, ok silkihúfu undir með knýttu gullhlaði um ennit. Hár hans fór í átta lokkum of herðar at belti, ok gullhringr á hverjum lokk, með digra gullhringa á báðum höndum. Meiri var hann of herðar en tveir menn aðrir. Úlmann stendr upp, er maðurinn gekk inn, ok gekk á móti hánum, ok heilsaði föður sínum. Bað ryðja öndvegi, ok leiddi hann þagat til sætis. Brá mörgum í brún við hans kvámu. Ármann settist niðr, sat um hríð ok litaðist um. Hann hafði klassekk undir hendinni; stóð upp síðan, ok gekk þagat er brúðirnar sátu, ok mælti: „Man ei mál Helga, at þú heimtir meydómstoll þinn ok ráðspjöll? Enda skal nú greiða". Leysti hann þá til sekksins, ok taldi fè í kjöltu hennar, tuttugu hundrut 16 aura hundraða, í gulli ok silfri ok dýrum gripum, ok mælti: „þagat skal skuld gjalda, er aðr var út tekin". því næst gekk hann fyrir Úlmann, ok taldi fram jafnt fè hinu, ok mælti: „Hirð þú Úlmann föðurarf þinn, ok þarftu ekki til meira at hyggja", Gekk síðan til sætis, er hánum var til vísat. Helga ok Úlmann stóðu upp ok þökkuðu hánum fègreiðsluna. Allir mæltu, er inni váru, at þar færi saman um manninn ok örlæti hans; ok þótti öllum sá bekkr prýðast, er Ármann

sat á. Var þá skemmtan mikil ok fast drukkit um kveldit. En er kom á nátt fram, ok menn vildu frá drykkju, skipar Úlmann at leiða föður sinn til sængr, en hann var þá horfinn ok fannst hvergi, ok ei var hann meir at þeirri veizlu. Leið svá af veizlan, ok váru menn með gjöfum út leystir. Vissu nú allir at Úlmann var son Ármanns. Ok þat mæltu sumir menn, at Helga hefði optar augu sín á Ármann en Þórarinn. Bar hún þá gripina enu góðu, er Ármann sendi henni; ok hafa þeir fyri satt haft, er þá gripi sáu, at í kvennþingum hafi þeir ei jafngóða gripi sèna. Settust þau, Þórarinn ok Helga at Helgafelli í Þormóðsdal, en Úlmann reisti bæ sinn um várit þar er hánum var til vísat, ok heitir sá bær at Úlmannsfelli. Þau, Þórarinn ok Helga, unntust vel ok bjúggu þar til elli, en Úlmann at Úlmannsfelli, ok er margt manna frá hánum komit.

## 10. kapítuli.

Á meðan þessu fór fram, er nú var frá sagt, bar þat til tíðinda, at Hlaðgerðr kona Þórálfs í Felli tók sótt til bana, ok þótti Þórálfi þat illa. Bjó hann um lík hennar þar í fellinu, en kallaði þat síðan Hlaðgerðarfell (Hlöðku eðr Hlöðufell). Eptir dauða hennar, gjörðist hann svá illr ok skapstyggr at dætr hans flýðu frá hánum, ok giptust þá sem fyr segir. Skömmu síðar fór

þórir á brott. Var hann þá ýmist at Ármanni eðr austr at fiskívötnum. Við hann er kennt vatn þat, er þórisvatn heitir, í óbyggðum. En þórálfr hèlt einn helli sinn. Tryllist hann nú mjök, ok stelr fè manna ok rossum. Líðr svá um hríð. þá er Ármann hafði verit 19 eðr 20 vetr hjer út á landi, bar svá við, at Bárðr frá Snæfelli átti at þiggja veizlu at Ármann, ok at miðjum vetri kom hann til boðsins, þá var Oddr í Tungu, mágr hans, í för með hánum. Ármann tók við þeim með blíðu. Var at því boði margt manna: Hallketill frá Hrafnabjörgum, vinr Ármanns, ok fleiri aðrir. At því boði höfðu menn þat til skemmtis at jafna saman mönnum, ok því næst óx þræta, hver þá mundi sterkastr á landi hèr. Ármann segir þat Bárð frænda sinn, en aðrir töldu ýmsa til. Bárðr segir fátt svá ágætt, at ei finnist ágætara, „ok er hèr á landi margt hraustra manna, en ek eldumst, ok munu nokkrir meiri". Ármann segir, ei svá vera megi. Bárðr segir, þat megi reynt verða, ok skal hèr mót leggja at vári. Skal Ármann boð gjöra suðr ok austr of land, en Bárðr norðr ok vestr. Fóru menn svá frá boðinu. Ok er kom fram á várit, gjöra þeir orðsending of land. Eiríkr á Eiríksstöðum undir Skjaldbreið ok Ólafr á Fitilsvöllum, fóru af hendi Ármanns. Komu þar hinir sterkustu menn allir, því mörgum þótti fýsilegt, þeim

er nokkut áttu undir sèr, at sjá leik þenna. Komu þeir allir saman at Ármanns á settum degi. Hèlt Ármann veizlu hinn fyrsta dag, annan dag gekk Eiríkr fyr veizlunni, hinn þriðja dag Ólafr, ok sparaði hvergi neitt til. Hinn fjórða dag kvað Bárðr á Ármann, at menn skyldu ganga á leikvöll. Hjá fellinu var flötr mikill, ok tókust þar upp leikar. Skyldi fyrst hringbrot, ok sagði Bárðr fyr leikum. en Ármann sat í brekku ok Þórálfr, því Ármann vildi hann ekki at leikum vegna kappsmuna. Illt þótti Þórálfi þat, at þeir gjörðu hann rækan. Tókst upp hringbrotit og braut Bárðr fyrst, fèllu þá margir þótt hraustir væru; en er hann mæddist braut Eiríkr á Eiríksstöðum, fèllu en nokkrir; ok er hann gaf upp. braut Bárðr hinn sterki, fèllu svá þá margir, at færri stóðu uppi, ok var þeim leik hætt. Tókust þá upp soppleikar. Var sá leikr sóttr með kappi; en svá stilltu foringjar til, at engar árásir urðu meðr slíkum ofreflismönnum, er þar váru. Því næst biðr Bárðr menn hætta þessu, ok taka upp glímur. „Skal Ármann segja fyrir fangbrögðum, en Þórir Þórálfsson skal glíma af hans hálfu, því hann var kallaðr fóstri hans. Fóru menn af klæðum, ok tóku fangastakka, ok gengu fyrst Þorkell bundinnfóti ok Eiríkr, en svá lauk at Þorkell fèll, en Bárðr hefndi hans. Þá gengu til Bárðr sterki ok Geir úr Keldudal. Var þeirra glíma mikill

atgangr, fèll Geir á knè, ok hættu við svá búit. Bergþór var þá 10 vetra, ok var hánum skipat móti Ormi hinum sterka, ok fèll Bergþór, en þórir hefndi hans, ok fèll Ormr á knè. þá fór þórálfr Skeljungsson ok Lágálfr af Siglunesi, ok áttust þeir lengi við, áðr Lágálfr fèlli Margir menn aðrir glímdu þar, ok gekk ýmsum betr. þórálfr Skeljungsson gekk þar at, er þórálfr úr Felli sat, ok mælti: „Er þat satt, at þú sèrt sterkari en aðrir menn, svá þú megir eigi at leikum vera sem aðrir menn, eðr veldr oflæti“? „Eigi er svá„ segir Ármann, „ok varðar ei at nauðga mönnum til fangs“. „Glíma skal hann“, segir þórálfr, ok tekr í fætr hánum, ok dregr hann ofan eptir brekkunni. Náði hann ei stöðu fyr en á slèttu kom, ok ráðast þeir þá at mjök sterkliga. Ei höfðu þeir lengi glímt áðr þeir hömuðust báðir ok stigu í grundina allt at skúreimum. Sóttust þeir nafnar nú í ákafa: því næst brast lærleggr þórálfs úr Felli, úr mjaðmarlið; fór hann þá halloka fyrir. Bárðr ok Ármann báðu þá upp gefa. Ekki vildu þeir þat, ok stóð þórálfr fyri á öðrum fæti, en krumlur læstu þeir at beini hvár á öðrum. Ármann heitir þá á menn, at skilja þá. Bárðr tekr þá þórálf úr Felli, ok Eiríkr með hánum, en Ármann ok Brandr þórálf Skeljungsson. þórálfr kvaðst ei hirða at sèr sè haldit sem hundi, ok ryskir Ármanni mjök, ok

spyr, ef hann vili standa með illmenninu. Ármann þreif í herðar hánum, ok varpaði á lopt, ok slengdi hánum á völlinn; hrökk þá sundr handleggr þórálfs, ok mátti hann ei at vera. Bárðr mælti: „Vel er nú fallit, menn gefi upp leik þenna, ok kunnum vit öllum þökk, er sótt hafa. Man mannfundr þessi í minnum hafðr, því ek hygg, ei komi annarstaðar saman fríðara drengjaval, ok röskvari garpar en hèr eru nú; ok skal völlr þessi, er vèr höfum hitzt, heita Hofmannaflötr. Man þá heldr minni til reka, at fundr várr hefr hèr verit". Hættu menn þá leikunum, ok fór hver til sinna byggða.

## 11. kapítuli.

Valdi hèt maðr, ok var kallaðr Skuggavaldi. Hann átti byggð í Valdadal. Sá dalr er austr frá Skjaldbreið, ok er læstr jöklum. Valdi var tröllaukinn jötunn, ok hamramr mjök. Hann átti margt sauðfè, svá eigi vantaði á tíu eðr tólf hundraða. því þar var sauðland gott í dalnum, ok gekk sjálfala. þórálfr í Felli, er hann var heill orðinn örkumsla, tryllist þá ætíð meir, ok er því verri viðreignar í stuldum ok ráni. Hann fer um haustið í Valdadal, ok stelr hundrat sauða ok rekr heim í Hlaðgerðarfell. En er Valdi varð víss um, fer hann ok hittir þórálf, ok beiðist fjárins eðr verðs. þórálfr kvað hann hvárgi hafa, ok man ek meira hafa áðr lýkr. Ekki treystist

Valdi við hann í hellinn, ok fór hann heim. Þat bar til um vetrinn snemma, at Þórálfr fór at veiðum á fiskivatn, ok veiddi of daginn. En er kvöldaði, gjörði veðr drífandi, ok býst hann heim. Hann sèr maðr gengr eptir ísinum, ok hefr skálm mikla í hendi Hann lyptir upp á sik fiskinum, ok rennr á leið. Þykist hann sjá, hver maðrinn er, ok hvert erindi hans muni. Hann vildi nú ei bíða, því at hann hafði ei vápna, nema ísabrodd sinn. Heldr því næst til fellsins. Valdi var sporadrjúgr, ok komst milli fjallsins ok Þórálfs, ok ver hánum fellit. Renna svá báðir of hríð. Veit nú Þórálfr, hann nær ei hýbýli sínu, ok mani ei svá búit duga, kastar hann byrðinni ok rèðst mót Valda. Valdi hjó til hans með skálminni, en Þórálfr bar af sèr með broddinum, þar til hann sèr sèr færi at ráðast á Valda. Var þeirra viðreign hörð ok löng, en svá lauk, at Valdi gekk af Þórálfi dauðum. Skömmu síðar of vetrinn kom Þórir at austan at hitta Ármann. Hann kemr á stöðvar föður síns, er þar um nátt, ok varð ei var við hann. Þykist hann nú vita, hvat í muni orðit, ok leitar of daginn. ok finnr hann þá hræ hans. Hafði annar lærleggr gengit úr mjöðm, en annar fótleggr brotnat. ok brotinn var hann úr hálsliðum Dysjar hann þá Þórálf, er hann lá dauðr, ok gekk heim síðan. Þar heitir nú Þórálfsfell, er hann liggr norðan undir, suðr

frá Hlaðgerðarfelli, ok segja menn, at steinn sá hinn mikli er þar stendr sè yfir dys þórálfs. þórir hittir Ármann, ok segir hánum tíðindin, ok beiðist af hánum styrks til föðurhefnda. „Illa fór þórálfr at luta sínum, ok var ván at hánum mundi hella, ok vil ek þú látir kyrrt vera; er Valdi illr viðskiptis, enda hafði hann rètta sök, ok átti eptir sínu at sækja", segir Ármann. „Eigi læt ek föður míns óhefnt, ok man ek þá einn fara; en hefna mantu verða, ef hann drepr mik", segir þórir. Ármann segir: Með þèr man ek þá fara, ok eru slík tröll sem Valdi er lítt sparandi". Nokkrum dögum síðar fara þeir af stað, ok austr í Valdadal. Koma þeir þar síð dags, ok er myrkvat mjök. Höfði einn gengr því nær um þveran dalinn. þar átti Valdi helli mikinn. Ármann biðr þóri inn ganga, „en ek man standa fyri dyrum". þórir gjörir svá. Hann hefr forkkylfu í hendi. Eldr logar á bröndum, ok er lítt bjart hit efra um hellinn, en myrkt hit neðra. Valdi sat á bergsteini nær eldinum, ok hafði disk í knjám, ok át slátr. þórir gengr at hánum, ok reiðir kylfuna, ok þá sá Valdi, er kylfan reið at hánum, en hann brá móti krumlunni, ok bar af sèr höggit. Vill hann þá upp standa, ok seilast eptir skálminni, er stóð við bergit, en hann var þá fastr við bergit, er hann sat á. Ryðst hann mjök um ok getr ei losnat. þórir greiðir hánum

hvert högg at öðru, en hann brá jafnan mót hendinni, ok varð ei af áverkum, þar til hánum tók at sárna lófinn. Öskrar hann þá ógrliga, rykkir á, ok rífr sik af berginu, en svá þótti sem öll þjóin væri eptir við bergit, ok hefði rifnat hold at beini. þórir sèr ei mani nú eptir Valda at bíða, ok hleypr undir hendr hánum. Er þeirra atgangr harðr, ok berast þeir um hellinn. Valda mæðir þá blóðrás. Kvásast hann mjök ok fellr um þvert gólfit. Ármann er þá inni, ok rèttir þórir skálmina, ok hjó hann af Valda höfuðit. Bjuggu þeir þá um hræ hans sem þeim henta þótti, ok váru þar of nóttina, ok kastaði þórir eign sinni á allt er þar var, ok bað Ármann af hafa þat er hann vildi; en Ármann vildi eigi af hafa. Fóru þeir síðan heim. þessu næst beiddi þórir Berghildar dóttur Ólafs á Fífilsvöllum. þau höfðu áðr at leikum verit, ok fèll vel á með þeim. Var þat at ráði gjört, ok fór hann með hana í Valdadal. Var síðan sá dalr kenndr við þóri, ok kallaðr þórisdalr. Svá hafa menn sagt, at Grettir hinn sterki gisti of hríð at þóri fyrir tilstilli Hallmundar frænda hans. þórir var rammr at afli, en stilltr ok hóglyndr sem móðir hans, ok dulr í skapi.

## 12, kapituli.

Eitill hèt maðr, ok var kallaðr nefr. Hann bjó at Skálabrekku við þingvatn. Hann vas við

aldr, es saga þessi hófst. Hann átti þrjá sonu. hèt hinn elzti þormóðr, annar þorfinnr ok hinn yngsti þorsteinn. þeir bræðr þormóðr ok þorfinnr váru hólsmenn miklir, ok lètu mikit yfir sèr, en váru þó öngvir garpar. þóttust þeir um fram aðra menn, ok engi lutr leizt þeim sèr ófær. En þorsteinn, bróðir þeirra, var hægr ok spakr; hafði hann ok enga ást of föður sínum, ok þótti lítið til hans koma. Kölluðu bræðr hans hann fífl eðr örkvisa. þorsteinn fèt sem hann heyrði þat ei. Eitill var auðigr at fè. þat bar til tíðinda um sumarit at Skálabrekku, at fè bónda hvarf. Leitaði smalamaðr eptir fènu, ok fann hvergi. Segir hann bónda frá, ok segist uppgefinn á leitinni. Bónda þykir illa um fjárhvarfit, segir þat runnit á fjöll, ok man lörmannliga eptir sótt. Veit ek þeir bræðr þormóðr ok þorfinnr manu skjótt finna, er þeir fara til leita. Heitir hann nú á þá bræðr at leiti fjárins. þeir kváðu sèr þat auðvelt, ok manum vit ei fyr aptr koma en fundit er, hvar sem at því er at leita. Bóndi biðr þá hitta Ármann í Ármannsfelli, ok man hann eitthvat til vita. Er hann jafnan vanr at styrkja menn, er við þurfa. þeir bræðr kváðust einhlítir at sækja eptir nokkrum sauðum. Er ok ei annat vísara en hann sjálfr stolit hafi. Bóndi segir þat ei vera. þorsteinn býðr þeim bræðrum at fara með þeim; en þeir segja hánum hentara vit soðskála en voga sèr í

tröllahendr því endemi sem hann er. Bóndi segir þat satt vera. „Veit ek at ei muni fleiri til þurfa; ok búast þeir af stað ok leita norðr til fjalla. At kveldi koma þeir í Ármannsfell ok vilja hitta byggð Ármanns. Leita um fellit ok finna ei. En loks fundu þeir fjárhelli hans. Var þá dagr at kveldi. Búast þeir við at vera þar of náttina, ok ganga í hellinn. Stóð þar mokstrartól við bergit en hellirinn óhreinn mjök. Leita þeir þá eptir hreinum stað at hvílast á, ok þeyta tólunum út úr hellinum, fara síðan innar at gafli ok búast þar um. Þeir sofna skjótt ok heldr fast. En er náttaði, komu sauðir Ármanns til bælisins, ok eptir venju sinni runnu innar at gafli á hellinum. Ei vakna þeir bræðr við þat, ok tróðust þeir undir sauðafótum, ok fengu þar bana. Nú líðr allt at hausti. Þykir bónda seinka um aptrkvámu þeirra bræðra, ok svá sem þeirra muni ei heimván. Þat var einn dag, at Þorsteinn varð fyri hánum í útidyrum. Bóndi segir skapraun mikla at sjá hann fyri augum sèr, þar et bræðr hans sèu annathvárt í tröllahöndum eðr dauðir. „Nei", segir Þorsteinn, „annat veldr því. faðir. Fèit mæðist at ganga sökum fjallholda, en þeir eru menn forsjálir, ok munu þeir skjótt koma". Bóndi verðr æfr við, en Þorsteinn fer á brott, ok skömmu síðar hverfr hann af bænum.

## 13. kapítuli.

þessu næst er þat af þorsteini at segja, at hann gengr heiman svá fáir vissu. Hann ferðast upp at Ármannsfelli, ok kemr þat fyri miðjan dag. Hann finnr nú sauðabólit, ok sèr hvernig umhorfs er. Bíðr þar um daginn ok vill hitta Ármann. Hánum leiðist biðin, ok hefr þat til dægrastyttingar, at hann mokar hellinn. Ok er hann hefr mokat um hríð, finnr hann bein ok hræ tveggja manna í saurnum. Ei lætr hann sèr bylt við þat, ok mokar öllu ásamt út úr hellinum. Fer síðan of kvöldit, er skyggja tók, ok leggr sik við dyr utar í afkima nokkurn; litlu síðar rann fèit inn í hellinn, innar hjá hánum, ok var hann þar um náttina, ok sakir ábyggju sefr hann lítt. En er hálfljóst var, verðr þorsteinn var við, at maðr gekk at hellisdyrunum, ok blístrar, ok runnu þá sauðirnir út. En er þeir váru úti, gekk sá maðr í hellinn ok litast um, ok sèr at hellirinn er hreinsaðr. þorsteinn stendr á fætr, ok heilsar manninum, ok hyggr at Ármann sè. Ármann tekr kveðju hans ok segir: „Vel gjörðir þú, þorsteinn, at hreinsa sauðahelli minn, eða hefr þú orðit nokkurs var. þorsteinn kveðst ei vita hvert mannabein eðr ei hefðu þar verit í moldtaðinu. Ármann segir: „þar hefr þú fundit bein bræðra þinna, ok mættir þú halda mik af valdan, en þat er því síðr; ok hafa aðrir meir ráðit dauða þeirra,

enda studda ek þá lítt; þótti mèr ei úskapligt þótt þeir vissu, hvat þeir ættu undir sèr ok stóryrðum sínum þorsteinn segist sik þar ekki af skipta, „ok man ek ekki mèr far at þeim gjöra. En þess vil ek biðja þik Ármann, at vísa mèr á sauði föður míns, ok hvat af hefr orðit". „Gjöra má ek þat", segir hann, „en hvárki þú nè annara manna man þat á brott færa, móti þeirra vilja, er með hafa farit". „Kynna mantu mèr", segir þorsteinn. „Tröllkona heitir Skinnhetta", segÁrmann, „ok á hún byggð austr hjá Tröllavötnum. Hún er seyðskratti ok full forneskju ok fláttskapar. Hana hefr dreymt, at hún mundi eitthvat þungt bíða af ykkr bræðrum. Hefr hún stolit fènu, ok vissi þit mundut eptir leita; ok er hún völd af dauða bræðra þinna, ok óttast hún nú þá ekki framar. En nú man hún vilja fyrirkoma þèr, ok er þèr bezt at fara heim við svá búit". „Ei man ek þat gjöra", segir þorsteinn, „ok ljá mèr fullting þitt til at ná fènu". „Ekki næ ek því", segir Ármann, „ok engi annara. ok láti hún sjálf laust, ok muntu þá sjálfr fara verða". „Til man ek reyna", segir þorsteinn, „þín vil ek at njóta". Ármann segir: „Ei má þèr mikill styrkr at mèr verða; en útlausn mun hún gefa þèr á fènu, ef þú getr til unnit". „Þá er nokkru nær", segir þorsteinn. „Þat eina man hún fyrir þik leggja", segir Ármann, „at þú mant eigi einhlítr

at". „Hjálpa þú mèr þá", segir þorsteinn. Ármann brosti ok mælti: „Hvárgi okkar meðfæri er Skinnhetta. En eigi meina ek þèr nafn mitt, ef þèr þyki svá við liggja". „þat vil ek feginn", segir þorsteinn. Segir Ármann hánum leið ok stefnu til Tröllavatna, ok skildu þeir at svá búnu. Fer þorsteinn allt eptir forsögu ok tilvísan Ármanns, ok at aptni hins þriðja dags kom hann í helli Hettu, ok hefr hún þá eld uppi ok seyð. Hann gengr frjálslega í hellinn ok kveðr Hettu. En hún rekr upp glyrnurnar ok mælti: „Hver hefr vísat þèr byggð vára, ok ertu afglapi". þorsteinn segist kominn þar at leita sauða föður síns. „Hver hefr frætt þik, at hèr sèu"? „Draumar mínir ok forvizka", segir þorsteinn. „Heyr á endemit", segir Hetta, „ok vil ek víst eigi níðast svá á skörungskap mínum, er þú hefir mik heimsótta, at drepa þik vesalmenni". „Enn betr gjörir þú þá", segir þorsteinn, „ok vísa mèr fèit". „Djarfr ertu, fól þitt", segir hún, „ok skaltu vinna fyrir útlausn þess tveggja daga verk". „þá vil ek kaup hafa", segir þorsteinn. „því sjálfr þykist ek fèit eiga", „þat skaltu fá", segir Hetta. Býðr hún þá þorsteini mat. þat var sæmilig fæða, ok er þorsteinn þar of náttina. Um morguninn er Hetta snemma á fótum, ok segir til þorsteins: „Verk hef ek ætlat þèr í dag". þorsteinn spyr hvat þat sè. Hetta segir: „þú skalt slátra uxa

mínum átta vetra gömlum, ok bera inn hold allt, „ok haf soðna slængina, þá ek kem heim. Mun ek á viðum í dag. Hèr með skaltu raka húðina, ok elta til fata, en skafa hornin til matspána“. „Ekki er þetta lítið verk“ segir þorsteinn, „eðr hvar er uxinn“? „þat áttu sjalfr at vita“, segir hún. „Allt er þat þyngra nú“, segir þorsteinn, „ok man ek eigi at hyggja“. „Drepinn skaltu þá“, segir Hetta, ok stökk út úr hellinum. þorsteinn heitir nú á Ármann; ok skömmu síðar kemr Ármann ok teymir uxann, en Hleiðúlfr rekr á eptir. Skera þeir uxann skjótt ok sundra. Tekr Ármann húðina, en Hleiðúlfr hornin ok fara brott; en þorsteinn ber inn slátrit. Býr hann slængina til soðnings, ok kyndir mikilliga. Kemr Ármann þá með húðina, ok er hún elt til klæða, ok matspánuna. En er myrkt var, kemr Hetta, ok hefir álpta ok gæsa kippu of herðar. Hún snarar kippunni, ok gengr at katlinum, ok spyr ef soðin er slængin. þorsteinn segist hyggja at svá er, „ok prófa sjálf“. Hún grípr til íspenja ok lundakepps, ok stýfir úr krumlum sèr, ok segir: „Vel er þetta unnit þorsteinn, „eðr hvar er húðin ok spánurnir“. „Ekki hef ek þar athugat“, segir þorsteinn, „ok meinta ek þèr gamanmælgi vera“. „Fá skaltu kaupit, ef ei er unnit, segir Hetta. þorsteinn sækir húðina ok spánuna. Hún horfir á um hríð ok mælti: „Ei veit ek hver þik

styrkir þorsteinn, en varla muntu einn unnit hafa". Snæðir hún því næst, ok segir, þorsteinn skyldi at hafa slíkt er hann vildi, ok gekk svá til hvílu.

## 14. kapituli.

Annan dag var Hetta enn árla á fótum. þorsteinn spyr; ef hún ætli hánum verk. „Varla er þat, at verk megi heita", segir hún. „En nú er veðr kyrrt ok fagurt, ok skaltu breiða til þerris rúmföt mín. þú skalt opna beðinn, ok breiða allar fjaðrir sem þynnst ok viðra; lát síðan, ef skyggir fyr sólu í beðinn allar fjaðrirnar, ok lát enga til vanta. Ber síðan inn ok reið upp bólflet mitt. Plokka skaltu elptr þessar, ok lát fiðrið í svefnbeðinn, en haf soðit kjötið, er ek kem heim". þorsteinn segir: „Lètt man þetta verk". Leys þess betr af hendi", segir hún, ok fer á burt. En þorsteinn gjörir sem hún mælti fyrir, ok þykist nú einhlítr. Breiðir hann fjaðrirnar, en sezt ok plokkar fuglana. því næst þykknar fyrir sólu; ok hyggst hann at sveifla saman fiðrinu. Kom þá hvirfilvindr svá mikill, at fiðrit fór í lopt upp, ok ei sá hann eptir eina fjöðr. þykist hann nú illa staddr; ok heitir á Ármann til úrræða. því næst er Ármann þar ok Hleiðúlfr karl. þorsteinn segir, hvernig komit er. Ármann biðr Hleiðúlf sækja fjaðrirnar, „en ek man taka við ok láta í beðinn". Hleiðúlfr blístrar í allar áttir, ok fjúka

fjaðrir saman, en Ármann treðr í beðinn. Ármann knýtir fyrir, ok spyr, ef allt er komit. „Sá er einn fjaðrhnoðri eptir, er Hetta varðveitir í nös sèr, ok ek fæ ekki tekit“, segir hann. Þorsteinn ber þá inn fötin, ok reiðir upp fletið. En áðr hann fór til, hafði hann kveiktan eldinn ok látið upp fuglkroppana til soðnings. En er hann kom til, er eldrinn dauðr. „Allt fer nú at einu“, segir Þorsteinn. Ármann tekr eldfæri úr púss sínum, ok kveikir, en Hleiðúlfr blæs at, ok tendrast hann skjótt. Ármann segir: Nú muntu Þorsteinn þykjast kominn at fènu, ok mantu nú kjósa þèr kaup. En kjósa skaltu þèr þat, sem kvikt er í lopthellinum. En þat er Svanborg, dóttir Hreiðars jarls á Vermalandi, ok hefr Hetta hana með hamfari þangat sótta, ok ætlat hana Grímúlfi, syni sínum. Hann er nú at fóstri hjá systur hennar Skinnbrók, austr við Langaskaga, ok hefr þú Svanborgar at notið um tilstyrk minn, því hún er af ætt Snæs hins gamla, ok í frændsemi við vini mína, ok vilda ek hana úr trölla höndum. Fer Ármann á brott, en Þorsteinn kyndir at fuglunum, ok þá er rökkvar, kemr Hetta, ok hefr byrði af fiskum. Hún spyr, ef fuglinn er soðinn. Þorsteinn biðr hana til vita. Hún tekr einn fuglkroppinn, ok stýfir úr knefa, ok segir fullseytt, „eðr er uppreidd sængin“? Hún gengr at fletinu, ok strýkr um beðinn ok svæflldýnuna,

ok segir vanhirtar fjaðrirnar, „ok man hnoðra til vanta". „Ei hefi ek þar athugat", segir þorsteinn. „þá skaltu fá kaupit", segir hún. En er minnst varir, rèttir þorsteinn hönd í nös henni, tekr fjaðrhnoðrann, ok mælti: „Hirtr er sá hnoðrinn, er þú sjálf varðveitir". „Duld er ek at því, hver þik styrkir þorsteinn", segir hún, „en ekki held ek þik einan í verkum". „Svá", segir þorsteinn, „þá þykist þú hafa fengit mèr fullnóg at starfa, ok vil ek hafa fèit ok kaupit". „Snæða skal ek fyrst, ok bíðr þat morguns". Ok segir hún þorsteinn skuli eta af fuglinum þat afgangs er; ok fer hún at sofa At morgni eru þau snemma á fótum, ok heimtir þorsteinn fèit ok kaupit, sem til var skilit. Hetta segir: „Er þèr þat ei nóg kaup, at et ek drep þik ei". þorsteinn segir: „því lofaðir þú sjálf at gjöra þat ei". Hetta segir: „þar er fèit þitt yfir í fjallinu, ok far með þat brott, ok mæl ei fleira". „Hafa vil ek kaup mitt", segir þorsteinn. „Kjós þá", segir Hetta. þorsteinn segir: „þá kýs ek þat, sem kvikt er í lopthellinum". „Hvat mun þat annat en hreisiköttr minn"? segir hún. „Lát mik til sjá", segir þorsteinn. „Bæði ertu djarfr ok forvitinn", segir Hetta. Lýkr hún þá upp lopthellinum, ok biðr hann til sjá. þorsteinn sèr þar svá fríða konu, at ei þóttist hann vænni sèt hafa. „þetta er Svanborg dóttir mín", segir Hetta,

„ok mantu varla þurfa til ætla, ek gefi þèr hana“ „þat skal ek hafa, er ek kosit hefi“, segir þorsteinn, „ok ei getr þat verit, hún sè þín dóttir, því mèr sýnist hún kvenna vænst, en þú afskræmi ok tröllslig mjök“. þá hló Hetta svá glumdi í hellinum, ok mælti: „Öllum fer yðr eins karlmönnunum, at yðr þykja fríðari hinar úngu konurnar. Nú skaltu eiga kost á henni, ok þat áðr til vinna, at færa mèr hringa tvá, þá er Skrámgerðr amma mín missti á Vermalandi í brúðkaupi sínu. Hefr annar þá náttúru, at kona má strax frjófsöm verða, er áðr var ei, er hún við karlmann kemr, en annar þá, at kona má strax fæða, er áðr gat ei, þá yfir er borinn; ok skaltu hafa þriggja missera frest til sóknar, en Svanborg skal hèr á meðan vel haldin. Ok er þú hefr sótt hringana, skaltu hèr drekka brúðkaupit, en ek man kostnat til leggja. Væntir mik, ef þèr þykir hún svá fögr sem lætr, þú munir allt kapp á leggja, ok fyri víst þykist ek þat vita, at hefðir þú sèt mik á unga aldri ok úgipta, at þèr hefði sýnzt ek eigi úvænni, þó margir kalli okkr mjök líkar verit hafa“. „Úmak fái hól þitt“, segir þorsteinn, „eðr hvert vísar þú mèr eptir hringunum“? „Fyrir löngu munda ek eptir sótt hafa“, segir hún, „ef ek vissa, hvar niðr váru komnir“. „Eigi er þat ofmælt“, segir þorsteinn, „at þú ert verst allra trölla; en þat skil ek til,

at Svanborg hafi frjálst leyfi hjá þèr á meðan at ganga út ok inn þar hún vill". Hetta segir, þat vera skulu, ok skilja þau at svá mæltu.

## 15. kapítuli.

Þorsteinn gengr þangat er hann sèr fèit í fjallinu, ok þykir hánum eigi torvelt yfir at komast. En er hann á allskammt at því, kemr á svá mikit myrkr ok þoka, at hann sèr ei jafnt fótum, ok sèr hann nú ei kálit sopit þótt í austuna sè komit, ok heitir hann enn á Ármann. En hann sjálfr leitar ofan úr þokunni. Því næst sèr hann at Ármann ok Hleiðúlfr reka fèit, ok er þeir koma á jafnslèttu hverfa þeir en Þorsteinn rekr fèit. Ber hánum ekkert til frètta nè farartálma, þar til hann kemr undir Ármannsfell. Fer hann ok hittir Ármann, ok þakkar liðveizluna. Ármann spyr, hvat hann ætli fyrir sèr með eptirleitina. Þorsteinn kvaðst þat ei vita. Ármann segir: „Auðsèt er þat, at Skinnhetta vill þik feigan; en ei má ek nú veita þèr lið at sinni, ok hlýtr þú at fara af landi burt, ok hitta Grámann bróður minn austr í köldu Svíþjóð. Man ek síðar fá hánum boð ok jarteiknar til fylgdar þèr. Þar með skaltu finna Gunnhildi drottningu í Norveg, ok fær henni knýti ok púss, ok þat hún láti vísa þèr til Svíþjóðar. En skip kaupmanna er búit til hafs á fjögra nátta fresti í

Hvítá, ok bið þá um flutning". Þorsteinn þakkar hánum tillögur ok góðvilja ok rekr heim fèit. Varð Nefr bóndi feginn fè sínu, ok spyr Þorstein tíðinda, ok hvert hann hafi orðit var við bræðr sína. Þorsteinn kvað þat lítt vera, en ei þarftu at búa-t við þeim for næstu jól". Var nú bónda til hans betr en áðr, því þar vantaði til engvan sauð af fènu. Þorsteinn er heima 2 nætr, ok er í tilbúningi. Faðir hans spyr, hvat hann ætli fyrir sèr. „Til Noregs nú fyrst", segir Þorsteinn. „Því skal braða þessu? Veit ek nú öll skip lögð til hafs þau er fara landa í millum", segir bóndi. „Á þat verðr at hætta", segir Þorsteinn. Fèkk hann lítil fararefni, ok gengr einn af stað til Borgarfjarðar ok hittir kaupmenn, ok beiðir þá fars. Þeir leyfa hánum farit, er þeir sáu hann var laus ok liðugr. Lètu þeir í haf, ok höfðu skamma útivist, ok tóku Þrándheim. Þá var konungr yfir Noregi Haraldr gráfeldr, ok Gunnhildr með hánum. Hittir Þorsteinn drottningu, ok færir henni kveðju ok jarðteiknar Ármanns. En er hún hefir leyst til, ok sèt hvat í er, segir drottning hann hafa satt at mæla, ok spyr hann um fyrirætlun sína. Hann segist vilja til Svíþjóðar. Drottning býðr hánum þar at vera um vetrinn. Þorsteinn kvað brýnari ferð sína en svá mætti vera. Kom hún hánum þá í för með þeim mönnum, er reistu til Svíþjóðar, ok fekk

hánum þat hann með þurfti. Hún gjörði ok vinum sínum orð at greiða ferð hans, ok varð hánum gott til liðsemda; ok hélt hann á leið til köldu Svíþjóðar. Eru hánum leiðir úkunnar ok torsóttar; er nú komit á vetr fram.

Þat vas einn dag, at Þorsteinn er á leið í köldu Svíþjóð, at hann er úviss hvert halda skal, en veðrit mjök kalt ok fjúk mikit. Hann gengr þar til er myrkt er orðit. En fjúkit syrtir, kvásast hann þá mjök; þar til hann sèr ei fært lengra at ganga. Fer hann undir stein einn, ok hyggst at láta þar fyri berast. Breiðir hann feld um höfut sèr. Kólnar hánum þá mjök, svá hann nötrar úr hófi. Ok er hann hefir legit of hríð, verðr hann var við, at eitthvat er kvikt nær steininum. Lítr hann nú undan feldinum, ok sèr, at maðr stór í grákufli ok girtr svarðreipi stendr yfir hánum. Þorsteinn óttaðist, því hánum sýndist maðrinn ei meðalsnati. Sá mælti: „Hví liggr þú hèr Þorsteinn fyri úlfatönnum? Rís upp ok kom með mèr til byggða". Þorsteinn varpar þá feldinum, ok spyr hann at nafni. „Ek heiti Grámann, ok veit ek ferð þína ok eyrindi, því ek hefi nýfundit Ármann bróður minn, ok hefr hann tillagt með þèr, hvernig sem seinna fer". Þorsteinn verðr þá mjök feginn, stendr á fætr, ok hristist hann mjök. Grámann gengr þá fyrir, ok þykir Þorsteini hann hraðfara. Gengr þó slíkt er

hann má, þar til hann má ei lengr fylgja, ok þrýtr hann gönguna. Grámann segir hánum þá at fara á herðar sèr, ok gjörir hann svá. Rann Grámann þá sem laus væri, ok er leið á nátt. kom Grámann at gljúfrum miklum. Hann fór lengi eptir gljúfrinu þar til dalr einn varð fyrir hánum grasi vaxinn, ok var þar engi snjár. Þar sèr Þorsteinn húsabæ mikinn ok sterkligan. Lætr hann þá Þorstein ofan. Grámann lýkr upp hurðu gengr inn ok biðr Þorstein fylgja sèr. Fylgir hánum í hús eitt ok vísar hánum sæng eina, ok biðr hann hvílast þar. Svá gjörir Þorsteinn en hinn gengr brott ok læsir dyrum, ok með því hann var dasaðr mjök, sofnar hann skjótt ok allt til dags; en þá bjart var, klæðist hann, ok hittir Grámann. Hann vísar hánum þá til stofu einnar. Þat var vandat hús. Þar sitja þrjár konur at hannyrðum á palli, er saumuðu borða. Var ein þeirra roskin, en tvær ungar. Allar váru þær vænar ok sköruligar. Grámann skipar hánum fæðu, ok segir: „Hèr mantu vera verða í vetr, ok skemmta konunum, en ek gæti starfa minna“. Þorsteinn kvaðst þat þiggja vilja. Vel þótti Þorsteini þar allir hlutir vandaðir, ok hýbýlishættir góðir. Váru þær yngri konurnar ljúfar ok glaðar við hann; ok er hann þar svá at hánum þótti bezt æfi sín. Þat várim Þorsteinn, at Grámann vat at veiðum hvern dag, er veðr

var til. Ok eptir miðjan vetr, var hann á brott í hálfan mánuð. En es hann var heima, smíðaði hann eðr skepti örvar. Þat vissi Þorsteinn, at hinar yngri konurnar váru dætr Grámanns. Jafnan slóu þær hörpu eðr önnur hljóðfæri, ok sátu at skáktafli. Nam Þorsteinn at þeim þær íþróttir, svá öngvir menn komust til jafns við hann hèr á landi. Leið svá fram til várs. Þat var eitt sinn, at Grámann mælti til Þorsteins: „Lítt hraðar þú þèr at hringaleitinni, ok þykir þèr betra at sitja hjá konunum". Þorsteinn segir; „Þar er ráð mitt sem þú ert". Grámann tekr þá pung einn, ok tók þar úr gullhringa tvá ok mælti: „Þar eru þá hringarnir, ok sótta ek þá með tilstyrk góðra vina í Álfheima. En sèt gæta ek, þótt Skinnhetta fengi einhvern tíma jafnörðuga för ok ek hefir af lokit". Fekk hann Þorsteini hringana ok bað hann vandliga varðveita. Þorsteinn þakkar hánum fullting ok allan greiðbeina; en Grámann biðr hann hraða ferð sinni áðr skip öll gangi af Norvegi. Býst Þorsteinn af stað, ok búa konurnar hann til ferðar, en Grámann fylgir hánum til byggðar, ok vísar hánum leið. En áðr þeir skildu, mælti Grámann: Þat gef ek þèr til leyfis, Þorsteinn, ef þèr þykir við liggja at nefna nafn mitt einu sinni. Far nú vel ok heilsa frá mèr Ármanni bróður mínum, þá er þú kemr á Ísland. Skiljast þeir síðan, ok segir ei af ferð-

um þorsteins fyr er en hann kemr til Norvegs nær miðju sumri. Váru þá flest skip komin til hafs. þó náði þorsteinn einum kaupmönnum, ok beiddi hann þá flutnings. En er þeir vissu hann var Íslenzkr, tóku þeir við hánum. Váru margir menn á skipinu kvíðandi við hafþroti, er þeir urðu svá síðbúnir. þorsteinn kvað þat mundi ei. Leggja þeir í haf ok fá óskaleiði. Tóku þeir Rútafjörð, ok eru þá fá eðr engi skip út komin. Fer þorsteinn þegar frá skipi suðr til föður síns. Ei sagði hann neitt um ferðir sínar ok líðr ei langt áðr hann finnr Ármann ok ber hánum kveðju Grámanns, ok hvernig til hafi gengit. Ármann segir vel fara, ok lætr vel yfir. En ei þarftu þat at hyggja, at Hetta láti hèr við standa. því hvárki ætlar hún þèr lífið nè konuna. þorsteinn segist verða at finna hana samt, „ok vil ek enn þín at njóta ok forsjá hlýða". Ármann segir: „Ei skaltu fyr fara til Tröllavatna en 7 nætr lifa sumars. Kom þá ok finn mik". þorsteinn fer nú heim, ok er föður hans nú í meiri þokka við hann en fyr, ok heldr hann afbragð. Ei veit hann neitt af efnum hans. Ok er 7 nætr lifa sumars, fer þorsteinn heiman ok hittir Ármann. „Nú ætlar þú til Tröllavatna", segir Ármann. þorsteinn kvað svá vera. „Fús gengr þú í dauðann", segir Ármann. „Ei man svá verða", segir þorsteinn. Ármann segir: „Nú skaltu fara næst þèr í snjó-

kufl minn, því ei mun þèr annars duga; ok koma mun ek, þá er þú getr mín, Þorsteinn gjörir svá ok fer í kuflinn. Heldr hann leið til Tröllavatna. Hann hitti Hettu, er hún gekk frá veiðum. Hún mælti: „Hvert ertu kominn Þorsteinn; eða hefr þú hringana". „Hef ek víst", segir Þorsteinn, ok selr henni knýtil. Hún leysir til ok sèr hringana. Hefst þá mjök brún hennar, ok mælti: „Frægðarmaðr ertu Þorsteinn, ok ei veit ek enn gjörla, hver þik eflir". „En hvárki hefr þú einn sótt, eðr yfir komizt". Þorsteinn segir: „Lát þèr þykja sem þú vilt. En kominn er ek nú at kaupinu". „Svá mun þèr þykja", segir Hetta, „ok hef ek viðbúizt, ok til dregit bæði drykk ok kost. Skaltu hér vera ok búa til brullaups, en ek mun bjóða vinum ok frændum mínum, því ek vil at allt fari sem sæmiligast af minni hálfu." Þú munt ráða", segir Þorsteinn, „ok muntu láta Svanborgu til styrkja". Ei gjörist þess þörf", segir hún, „ok hefr hún nóg at starfa at tilbúa brúðskart sitt. Ok ei vil ek láta þik glepja fyrir henni; ok hugsi hvárt um starf sitt. En ek man þrjár nætr á brott verða, ok haf þá til búit er ek kem". „Svá man verða", segir hann; ok fer hún af stað, en Þorsteinn býr til veizlunnar. Er þar nógr drykkr ok slátr fyri hendi, ok hagar Þorsteinn því öllu, sem hánum þótti varða. Ok at ákveðinni stundu kemr Hetta með boðsfólkit. Þar kom Grímólfr

ok Brók systir hennar, ok margt annara trölla, jötna ok úvætta. Ei þótti þorsteini frýniligt boðsfólk sitt, ok leizt hánum illa á þat, en þó verst á Grímólf. Fagnar hann öllum sæmilega, en Hetta segir alla velkomna, ok skipar fólk til drykkju. Skal Grímólfr ok Brók byggja öndvegi, ok þorsteinn gegnt hánum. þat sèr þorsteinn, at allir hafa gestirnir illt auga á hánum ok Grímólfr verst. Er nú fyrst tekit til snæðings, síðan til drykkju. Hetta gengr for gestum ok þeir er hún til kveðr. En er drukkit var um hríð, ok fólk fór at ölvast, spyr þorsteinn , hvárt brúðrin skuli leiðast á bekkinn. „Ekki er þat siðvenja hjá oss", segir Hetta, „at leiða brúðir til sætis, meðan glymt ok ölæði er á mönnum sem bráðast, ok bíðr þat morgunns". Hann segir, hana ráða skyldu. Hún biðr menn nú drekka, ok hafa til gleði þat sjálfir vill kjósa. Detta því næst í hlátrar ok ölhrinur ok fara menn at fleygja beinum. Hryllir nú þorstein við þessum leik, ok nú tekr Grímólfr hnútu mikla ok sendir fyrir brjóst á þorsteini svá hann engdi sik saman. þóttist hann vita, þat hefði sinn bani orðit, hefði ei kuflinn geymt hans, ok því næst standa bein á hánum öllu megin. Veit hann nú, at ei kemst hann með lífi úr þeim stað. Heitir hann því á þá bræðr Ármann ok Grámann, ok jafnskjótt sèr hann þrjá menn ganga í hellinn. Kennir hann þar þá bræðr en ei hinn

þriðja. Gengr Grámann á gólf framm fyrir, er Þorsteinn sat, en sinn hinna með hvárum bekk. Þat þóttist hann vita, at engi sá þá. Nú tekr Grímólfr hnútu mikla, ok fleygir at Þorsteini, en Grámann tekr á lopti, ok sendir aptr ok kemr á kinnbeinit, ok brotnar þat, en augat springr út. Grímólfr grenjar þá mjök ok þrífr til hnútunnar ok fleygir af öllu afli, en Grámann tekr á lopti ok sendi for brjóst hánum, svá á kafi stóð, ok fell hann þá dauðr á gólfit. Hetta kemr þá at, ok sèr hvat í efnum er, ok mælti: „Illri heill komstu hingat Þorsteinn, at slík fádæmi verði, ok skalru aldrei lífi ná“. Æðir hún at Þorsteini mjök tröllsliga, en Grámann bregðr fæti fyrir ok hraut hún á nasirnar, en Grámann hraut hana á bak aptr. Þá hefr Ármann drepit Brók. Förunautr hans stóð ei kyrr, ok vá með broddkeppu, ok setti hana fyrir brjóst á tröllunum, ok flaug nú hvert á annat; en engi sá vegandann nema Þorsteinn, ok hlífðu þeir hánum. Lauk svá veizlunni, at allir lágu boðsmenn dauðir, ok var þat landhreinsan. Váru þeir kompánar þá móðir mjök ok tóku hvíld um hríð; ok hafði Ármann tekit með sèr Þóri úr Þórisdal, ok var hann hinn þriði. En er þeir höfðu hvílzt, mælti Ármann: „Ei ertu bráðlyndr Þorsteinn at líta heitkonu þína, ok er þat karlmannligt at sækja hana, ok leiða til sængr því át man drakkit brullaupit“. Þor-

steinn segir; „Hlýða man ek þinni forsjá hèr um sem um annat“. Fara þeir þá til lopthellisins, ok brjóta upp, ok því næst sjá þeir Svanborgu; ok var hún felmtsfull, því hún hugði at jötnar væri, er hana sóttu, en þorsteinn mundi dauðr, ok mundi hún eiga at leiðast til Grímólfs. þorsteinn kveðr hana, ok segir henni hvar komit er, „ok mantu hèðan fara verða“. Varð hún þá allshugar fegin. Tóku þeir Ármann ok þórir þat þeim þótti fèmætt, en Grámann kvaðst ei af hafa, ok báru þat úr hellinum, en skíðu ok eldivið inn aptr. Sá þorsteinn ok Svanborg þat síðast til, at allr hellinn var í logandi báli, enda sáu þau þá ei þá fèlaga. Ferðaðist þorsteinn þá með konuna til byggða. Kom hann til Ármannsfells ok var Ármann fyri löngu heim kominn. þorsteinn þakkar hánum með mörgum fögrum orðum liðveizluna ok lífgjöf, ok fekk hánum kuflinn. Ármann fekk hánum þá marga gripi af þeim er þeir báru úr hellinum, ok fer hann með konuna heim at Skálabrekku til föður síns. Ok tók hann vel við þeim.

## 16. kapituli.

Skömmum tíma eptir fráfall þeirra systra Hettu ok Brókar hvurfu Ármann 20 sauðir, ok skoðar hann hug sinn hvat, af muni orðit. þat var eitt sinn síð dags at hann ferðast vestr til Súlnavatns. þar var nú tröllkona er Skinnhúfa

hèt. Hún var systir Hettu ok Brókar. En er Ármann kemr inn í dyrnar á Skinnhúfu helli, er Húfa þar fyri, ok rekr báðar krumlur fyri brjóst á hánum, ok vill hrinda hánum á bak aptr út úr hellinum. Ármann þreif í axlir Húfu, ok brá henni til sveiflu, ok bárust þau úr hellisdyrum at vatninu, ok lá þá Húfa fallin. Ætlaði Ármann at láta knè fylgja kviði. Húfa mælti: „Drep þú mik ei svá fljótt, ok leyf mèr at mæla". Ármann linar á takinu; en Húfa segir: „Man þat satt Ármann, at þú hafir þat mælt, at þú skyldir æ fylgja hinu rèttara, ok meta hvert mál at sannindum"? Ármann segir: „þá þykist ek rètt meta, ef ek drep þik". „Ei man öðrum svá þykja", segirHúfa. „þú hefr drepit fyri öngvar sakir við þik tvær systr mínar, ok marga frændr ok vini; þar með rænt mik arfi, ok öngvar bætr fyriboðit. Nú mátta ek ei minna hafa en gemlinga þessa, er ek hefi tekit, ok vil ek þó nú fyribæta, ef þú gefr mèr líf". Ármann segir: „Ekki óttast ek þik, þótt þú haldir lífinu; en ei skaltu glettast við mik optar, nè öðrum mönnum mein gjöra". Hún lofar því fegin, ok lætr hann hana upp standa, ok skiljast svá. Hèr af má marka skaplyndi ok spekt hans, at vægja slíkum úvætti sem Húfa var, ok fyrir slíkar sakir, er hún hafði.

## 17. kapituli.

Þorsteinn kom einn tíma at máli við Svanborgu, ok segir: „Þat lízt mèr vel fallit, at ek gjöri brúðkaup til þín, ok þykist ek hafa til unnit". Svanborg kvað þat ei sitt ráð vera. „Ok vil ek þú hittir föður minn, ok fáir mik með hans ráði, man okkr þat betr gegna, mun hann ok ei þessa ráðs synja, þá er hann veit minn vilja". Þorsteinn segir, hún skuli ráða. Ok er sumraði, ræðr Þorsteinn sèr fari til Norvegs, ok fekk sèr þar fylgd ok föruneyti vestr til Vermalands. Hafði hann þá nóg fararefni; ok kemr þar er Hreiðar jarl var. Varð jarl mjök feginn dóttur sinni, er hann vissi hana þar komna, ok svá Þorsteini, þá hann heyrði með hverjum atburðum hann hafði leyst hana úr tröllahöndum. Ber hann þá upp eyrindi sitt fyrir jarlinn ok bað hennar. Jarl tók því ei fjærri. Ok er hann heyrði vilja dóttur sinnar, gaf hann leyfi til at þau ættust, ok kvað hann nóg til unnit hafa. Hèlt jarl þá brúðkaup þeirra, ok fór sú veizla vel fram. Gjörði jarl hennar hluta góðan, ok gaf henni mála í löndum ok lausum aurum, ok fekk hann Þorsteini sýslur af sinni hendi til umráða. Komst hann brátt í kærleika við jarl. En er Þorsteinn ok Svanborg höfðu verit 7 eða 8 vetr á Vermalandi tók Hreiðar sótt þá er hann leiddi til bana. Þótti þeim báðum þat mikit mein. Undu þau ok þá ei lengi

þar, ok seldu þau lönd sín ok eignir for lausa aura, ok fýstust til Íslands. Keypti hann skip á Rogalandi, ok rèði þar til háseta. Bar þar á fè sitt ok hèlt til hafs. Hafði hann skamma útivist, sem jafnan, þá er fór landa í millum, ok kom skipi sínu í Kollafjörð fyrir neðan heiði. Lèt hann flytja fè sitt austr at Skálabrekku, en lèt skipit ganga í kaupferðum til Noregs. ok hèlt því jafnan. En er þorsteinn kom út, var Nefr andaðr, ok settist þorsteinn í búnað, ok þótti hann hinn mesti garpr, enda þótti Svanborg bæta ráð hans í öllu. Sumir hafa kallat hana Vilborgu, ok segja við hana sè kennd Vilborgarkelda upp frá Skálabrekku. Hann hafði mikla sýslan ok gjörðist brátt ríkr maðr. En er hann hafði búit um hríð at Skálabrekku, keypti hann land suðr at Melabergi ok bjó þar til elli, ok gjörðist höfðingi. Áttu þau Svanborg börn, ok er margt manna frá þeim komit um Suðrnes. þótti öllum sem þorsteinn hefði hinn mesti gæfumaðr verit í þvílíkar hættur sem rataði.

Svá hefr Smiðtorfi á Reykjum, er var sonar dótturson Úlmanns, frá sagt, er flest hefir kynnt oss um þessa atburði, ok fleiri menn aðrir, at áðr en kristni kom á Ísland, hafi Ármann farit brott af Íslandi austur til Svíþjóðar til Grámanns, ok verit þar með hánum. En aðrir hafa öðru vísi frá kynnt; ok mælt svá, at hann hafi

búit í Ármannsfelli fram um kristni, ok draga þat til sanninda, þar um, at eptir þat kristni vas komin, hafi menn heitið á hann til fulltings ok liðveizlu. Var hann þeim öllum jafnan hinn mesti bjargvættr, ok hafi hann andast í Ármannfelli, ok borit þar bein. Vita menn úgjörla hverir sannara hafa, ok lýkst hèr þessi saga,

---

# Viðbætir.

Þá er Jón hinn helgi Ögmundsson var byskup at Hólum, reið hann til alþingis eitt sumar með flokk sinn, ok áðr hann reið á þing, tjaldaði hann á Hofmannaflöt, eðr undir Ármannsfelli, tóku menn náðir. ok lögðust til svefns. En er menn vöknuðu, var vant tveggja reiðhesta byskupsins. Þat líkaði ráðsmanni illa, ok lagði ríkt á um leitina. Var leitað ofan um skóga, austr til Kjalvegs ok norðr um fjall til Kaldadals, ok fundust ei hestarnir. Hallvarðr hèt annar hestadrengr, er leitaði. En er hann kom aptr úr leitinni þangat er byskup áði, en byskup var riðinn á þing. Hann var dasaðr ok svá hestr hans þar með syfjaðr orðinn. Hann leggr sik niðr í tjaldstaðinn ok litast um ok sèr upp í fellit. Hánum kemr í hug, hvat fellit heiti, ok mælir fyrir munni sèr svá: „Sè svá sem frá sagt hefr verit af Ármanni þessum, at hann svá þrautgóðr maðr verit hafi, þá vildi ek hann vísaði mèr á hestana. Hann sofnar síðan, ok dreymir því næst, at maðr kemi at hánum í bláum kufli, mikill vexti ok elliligr, svá hánum sýndist hár ok skegg hvítt fyri hærum. Sá mælti: „Við skulum eiga kaup saman. Þú skalt at öðru kvöldi vitja hingat hesta þinna, ok

þá þèr verðr þess auðit, skaltu koma nafni mínu undir skírn ok kristni; en mest man gafa þín verða í öðrum löndum, en hèr ei". Hvarf hánum þá maðrinn; en hann vaknar; sýndist hánum þá svá sem hann sæi eptir svip hans. Reið síðan ofan til þings ok annars kvölds vitjar hann hestanna, ok váru þeir þá þar í fjötrum, ok hirti hann hestana. þessi Hallvarðr var í frændsemi við byskup; en ári síðar barnaði hann ráðskonu hjá byskupi, ok varð hann þá mjök fyri hörðum orðum ok reiði hans; leyndist því brott af staðnum, ok kom sèr í skip með kaupmönnum til Norvegs. Hann fekk sèr vist með einum bónda í Niðarósi, ok því næst gjörðist hann bónda handgenginn, ok varð honum kær mjök. Kom svá á með þeim, at bóndi gipti hánum dóttur sína, ok fekk hánum bólfestu. Auðgaðizt hann, ok varð ríkr maðr í Norvegi, Er svá sagt at hann hafi gjört sem fyri hann var lagt, ok látið son sinn einn heita Ármann, ok bera nafn draummannsins.